# Sameiningin.

*Mánaðarrit til stuðnings kirkju og kristindómi Íslendinga, gefið út af hinu ev. lút. kirkjufélagi Ísl. í Vestrheimi.*

RITSTJÓRI *JÓN BJARNASON.*

7. ár. WINNIPEG, JÚNÍ 1892. Nr. 4.

## *VITRAN SÁLS.*

(Pg. 9.)

Eptir sjera *Valdemar Briem.*

———o———

Sjer unir fögur rós á rót
og röðli brosir hýrt á mót
um sælan sumardag.
Þá dynur voða-veður á
hin veiku jarðarblómin smá
og upp þau rífur rótum frá
og reitinn gjörir flag.

Sjer átti drottinn urtagarð,
er áður fyrir þessu varð.
Hann fögur blómstur bar.
Þá ofsastormur yfir dreif
og ungu, veiku blómin hreif
og upp þau skjótt með rótum reif
í rósalundi þar.

Hve fagur reitur forðum var,
er fyrsti vísir kristninnar
í kyrrþei vaxa vann.

En stormur sá, er rauk um reit
og rósir upp og blómstur sleit,
af Farísea sá var sveit,
og Sál var nefndur hann.

Hinn gamli Sál með dreyrgum dör
mót Davíð reiddi bitran hjör
og fjörráð fyr um bjó.
Nú upp var risinn annar Sál,
mót öðrum Davíð hvessti stál,
og óð um land með brand og bál
og börn guðs niður hjó.

En hann, sem forðum felldi Sál
og fylkis slökkti reiðibál,
enn Sáls gat brandi bægt;
og sá, er kyrrt gat sjávarrót
og sefað stormsins grimmdarhót,
gat enn þá staðizt stormi mót
og sterkan ofsa lægt.

Á ferð var Sál einn sumardag,
þá sólin skein með gleðibrag,
en glatt hans geð ei varð;
í grimmum víga-hug var hann
og heiptin þung í skapi brann;
með ofsókn vildi eyða þann
guðs unga jurtagarð.

Og Damaskusar háu hlið
af hita móður stóð hann við
á þeirri fjörráðs-ferð.
Þá ljós af himni leiptra vann
og logabrandi sló um hann;
þar eldur drottins bræði brann
og biturt logasverð.

Og Sál til jarðar leiptrið laust,
og lúður-hvell þá heyrðist raust

í eyra ægileg.
Og raustin hvella sagði: „Sál,
hjer sjer þú drottins reiðibál;
hví æðir þú með eld og stál?
Hví ofsækirðu mig?“

Sem Davíð forðum fjallstindi' af
til fylkis kvað, er hljótt þar svaf
og var ei var um sig,
nú heyrðist raust úr hærra stað,
frá hærra Davíð nú hún kvað,
en allt hið sama orð var það:
Hví ofsækirðu mig?

Og harður Sál þá vikna vann,
með veikri grátraust mælti hann:
„Minn herra, hver ert þú?“
Sem reiðarslag gall raustin há:
„þú reiði guðs þig manar á,
því eg er Jesús, eg er sá,
sem ofsækirðu nú“.

Sú hvella raustin himni frá
þar heyrðist glöggt, en engan sá,
er raustin gjalla rjeð.
Og Sál er augun opna vann,
þá ekki sá hann nokkurn mann,
svo leiða urðu hinir hann,
er honum voru með.

Sjá, fyr um sjónin hvöss var hans
og heilskyggn augu líkamans,
en sálin sjálf var blind.
Nú var hann blindur augum á,
en innra ljósið glæddist þá,
og andinn glöggt sitt ástand sá
og ógurlegu synd.

Hann sá, að stormur beint sig bar

að barmi tæpum glötunar
á hálli heimsins slóð.
Þar dauðans vök í djúpi gein,
en dómsins þytur yfir hvein;
og sól í dreyrgum skýjum skein
sem skírðra votta blóð.

En aðra fegri sýn hann sá:
guð sjálfan drottin himnum á
í dýrðar- hárri -höll.
Og mikla leit hann mannþyrping,
um mannsins son er sló þar hring,
og hástól drottins kraup í kring,
með klæði hrein sem mjöll.

Og aptur sjón hann fulla fjekk
og ferðaðist í kring og gekk,
en gekk nú guðs á braut.
Og sálaraugun áður blind
nú ávallt sáu Jesú mynd,
þau höfðu skírzt í lífsins lind,
frá lambsins stól er flaut.

Hinn gamli Sál með ógnar-orð
á eigin lífi framdi morð;
en sífellt lifir Sál.
Hinn ungi Sál og einnig dó,
en endurvakinn lifir þó;
hann gömlum manni bana bjó,
og breyttist þá í Pál.

Nú ei sem stormur æddi hann,
nú æðra krapt í sjer hann fann:
guðs anda líf og yl.
Sem Fönix nýr hann flaug um lönd,
með fræið lífs úr drottins hönd,
og flutti það að fjarri strönd
og fjarra þjóða til.

Í garðí drottins blómstur bleik
af bylgjum hröktust smá og veik,
en hann þeim hjúkrun varð;
hann leið um þau sem ljúfur blær,
hann ljek um þau sem geisli skær,
hann draup um þau sem döggin tær
og drottins prýddi garð.

Sem ungur Fönix flýgur æ
hans frægðarorð um lönd og sæ
og yfir alla storð.
Menn geta' að vísu vorkennt Sál,
en virða menn og elska Pál,
sem lífsins flutti friðarmál
og fagnaðarins orð.

---

## VITNISBURÐUR UM KIRKJUFJELAGIÐ
*og fjárstyrkur frá Íslandi til skólans.*

Vjer höfum marga hluti til að vera hryggir yfir. En vjer höfum líka marga hluti til að vera glaðir og þakklátir fyrir. Það, sem mest hefur orðið oss til gleði nú á þessum síðustu tímum, er sá vaxandi bróðurhugur, sem hvað eptir annað kemur nú fram gagnvart hinni kirkjulegu starfsemi vorri og sú hlýlega viðurkenning, sem hin veika viðleitni vor í kristindómsmálum vorum nú hefur áunnið sjer hjá bræðrum vorum í hinni íslenzku þjóðkirkju,—og það einmitt þeim, sem fyrir allra hluta sakir eru færastir um slíkt að dæma. Margir hinir merkustu prestar fósturjarðar vorrar virðast nú vera farnir að taka hinn innilegasta þátt í allri kristindómsbaráttu vorri hjer fyrir vestan. Hver á eptir öðrum rísa þeir nú upp til að tala um þá skyldu, er hvíli á herðum hinnar ísl. þjóðkirkju og um leið á herðum hinnar ísl. þjóðar í heild sinni, að veita oss eitthvert liðsinni í orði og verki; hingað til hafi þeir þar heima staðið hjá sem þögulir áhorfendur, án þess að láta í ljósi, hvort þeim þætti það betur eða verr, að

málefni kristindómsins hefði nokkurn framgang meðal vor eða biði algjörðan ósigur; slíkt tjái nú ekki lengur og sje í sjálfu sjer hin mesta óhæfa.

Á síðasta prestafundi, sem haldinn var í Reykjavík, kom fram tillaga frá sjera Oddi V. Gíslasyni um stofnun kristniboðsfjelags á Íslandi, er hefði fyrir mark og mið að styðja og styrkja kristniboðið meðal heiðingja eptir föngum. Síðan hefur það mál verið rætt af ýmsum í Kirkjublaðinu. Í janúarblaðinu kom síra Valdimar Briem fram með þá tillögu, að í stað þess að farið sje nú að safna fje á Íslandi til að styrkja kristniboð meðal heiðingja, ættu menn að gangast fyrir samskotum til að styrkja kirkjufjelag vort hjer. Hann tekur þar fram, að bezta og beinasta hjálpin, sem unnt væri að veita hinni stríðandi kirkju vorri hjer vestra, væri auðvitað sú, að senda hingað hæfa presta. En hingað til hafi það ekki tekizt og litlar líkur til, að það muni heppnast. „En úr því að vjer getum ekki stutt kirkjulegan fjelagsskap Íslendinga vestan hafs á þann hátt, höfum vjer naumast annað ráð til að styrkja þá, en að hjálpa þeim um fjárstyrk til að reisa kirkjur, mennta prestaefni, kaupa guðsorðabækur, eða eitthvað af þessu, sem mest þörf væri á í svipinn, og eptir því, sem fjeð hrykki til. Það er enginn efi á því, að slíku mundi verða vel varið, meðan sá maður stýrir málefnum hinnar lútersku kirkju landa vorra vestan hafs, sem nú gjörir það; og þó að hans missti við, mun þar varla góðra forstjóra vant; enda fengjum vjer þaðan jafnóðum skýrslu um það, hvernig fjenu yrði varið.“ Þannig farast síra Valdemar orð. Honum sýnist það liggja nær að styðja að því, „að vorir eigin landar lendi ekki í flokki heiðingja og guðleysingja“ en að snúa sjer að kristniboði meðal heiðingja. Hann tekur ekki þannig í mál þetta, til þess að spilla fyrir hinni eiginlegu kristniboðshugmynd, heldur álítur hann heppilegra að beðið sje með hana, þangað til „landar vorir í Vesturheimi eru búnir að koma kirkjumálum sínum í gott efni“.

Út af þessari bending síra Valdemars Briem stendur nú grein ein í aprílnr.i Kirkjublaðsins, undirrituð af þremur

helztu hvatamönnum hugmyndarinnar um kristniboð meðal heiðingja, þeim síra Jens Pálssyni, síra Jóhanni Þorkelssyni dómkirkjupresti og síra Oddi V. Gíslasyni. Fyrri hluti greinar þessarar gengur út á að sýna fram á, að ekki dugi annað, en að halda áfram með hugmyndina um kristniboð nú þegar, og leitast við að hafa þær framkvæmdir í því máli, sem unnt sje. Sterkasta ástæðan, sem fram er færð fyrir því, virðist oss vera sú, að það mundi hafa vekjandi og glæðandi áhrif á kirkjulífið í landinu sjálfu, ef einhverjar framkvæmdir yrði unnt að hafa í þessu máli. Reynsla allra hinna kristnu þjóða heimsins sýnir ljóslega, að sú ástæða er ákaflega sterk, og munum vjer síðar við tækifæri taka þetta mál til íhugunar, einmitt frá þessu sjónarmiði. Síðari hluti greinarinnar snýr sjer að tillögu síra V. Briem, og tökum vjer þann kaflann hjer upp, þar sem vjer erum sannfærðir um, að hann mun gleðja allt hið kristna kirkjufólk vort í þessu landi.

„En þrátt fyrir þennan mun á skoðan vorri og V. B. á máli þessu, erum vjer honum samdóma um, að *brýn þörf* sje á því, að styðja hið lúterska kirkjufjelag landa vorra vestan hafs í hinni evangelisku starfsemi þess fyrst og fremst, og í allri hinni virðingarverðu baráttu þess, ekki einungis fyrir málefni kristindómsins, heldur og fyrir viðgangi og heiðri ísl. þjóðernis og tungu og sannrar menningar hins ísl. þjóðflokks þar vestra.

V. B. hefur sýnt fram á *þörfina* með rökum, en vjer viljum jafnframt leiða rök að því, að það sje *siðferðisleg skylda, brýn og bein skylda* þjóðkirkjunnar og þjóðarinnar, að veita kirkjufjelaginu vestra nú þegar verulegt liðsinni.

Þeir, sem veitt hafa málum V. Ísl. eptirtekt, síðan lút. kirkjufjelagið var stofnað, hlýtur að vera ljóst, að hið mesta og bezta, sem þar hefur starfað verið að fjelagsmálum meðal Ísl., er beint og óbeint kirkjufjelaginu að þakka.

Það er því að þakka, að fjöldi ísl. manna og kvenna —barna vorrar ísl. kirkju — ekki hefur lent í kristindómsleysi, eða jafnvel algjörðu guðleysi, nje hnigið í opinn andlegan; dauðann; það er því að þakka, að ísl. Lúterstrúar-

söfnuðir hafa myndazt vestan hafs, og reist sjer prýðilegar kirkjur, þar sem hinn sami frelsandi og helgandi gleðiboðskapur kristindómsins, sem hjer heima var sáð í hin ísl. hjörtu, hljómar með náð sinni, huggun og friði á ísl. tungu inn í sálir íslenzku útlendinganna, sem í ókunnu landi og frumbýlingsskap, fjarri ástvinunum hjerlendu, bera hita og þunga dagsins, umkringdir margfalt fleiri freistingum en hjer heima, og þar sem æskulýðnum er veitt sjerstakleg fræðsla í kristindóminum á helgum dögum (sunnudagsskólinn), og guðsríkið þannig gróðursett í ungum ísl. hjörtum.

Að fjelagi, sem slíkt verk vinnur, og hefur afkastað eins miklu og hið lút. kirkjufjelag Ísl. í V.h. hefur gjört, er þjóðkirkju vorri skylt að hlynna.

Í annan stað hefur kirkjufjel. vestra í 6 ár haldið úti kirkjulegu mánaðarriti á ísl. tungu (Sameiningunni), sem í heild sinni er ágætis-rit, og auk þess auðgað vorar kirkjulegu bókmenntir með fleirum ritum og nú síðast með ársriti,—sem allt hefur verulegt gildi fyrir kirkju vora. Með þessum ritum hefur kirkjufjel. V. Ísl. haft lífsvekjandi og frjóvgandi áhrif á vorn ísl. kirkjuakur. Þetta er orðið svo viðurkennt, bæði meðal presta og leikmanna hjer á landi, að því mun varla nokkur dirfast að neita.

Þjóðkirkja vor er þannig komin í andlega skuld við kirkjufjelagið vestra; henni er skylt að borga þessa skuld, og viljann á að borga hana getur hún sýnt nú þegar með því, að veita því á einhvern hátt verulegt liðsinni. Gæti hún ekki þessarar skyldu sinnar, stofnar hún sóma sínum í hættu.

En hið ísl. þjóðfjelag á þessu kirkjufjelagi ekki heldur neitt smáræði að þakka. Það er því fremur öllu öðru að þakka, að Ísl. í V.h. eru ekki horfnir inn í þarlendan mannsæg eins og dropi í hafið, heldur eru orðnir virtur og vel látinn þarlendur þjóðflokkur, sem gróðursetur í einu hinu mesta framfaralandi heimsins ísl. tungu og þjóðerni, og hlúir að þessum fagra nýgræðingi af alefli; það er kirkjufjel. beint og óbeint að þakka, að Ísland nú getur eignað sjer efnilegar nýlendur vestan hafs, staðið í andlegum, gróðavænlegum viðskiptum við þær, og gjört sjer von stöð-

ugra nýrra áhrifa þaðan til frelsis og framfara, stöðugra menningarstrauma úr hinu ameriska þjóðlífi.—það er ekki lítilsvert, að Austur- og Vestur-Íslendingar eru teknir að talast við yfir hafið, og ræða í blöðum bæði sameiginleg og sjerstakleg málefni sín; og það að svo er komið, og að V.-Ísl. hafa getað haldið úti tveimur all-stórum dagblöðum og þannig lagt sinn skerf til veraldlegra ísl. bókmennta, það er því að þakka, að kirkjufjelagið hefur bezt vakið og komið fótum undir þjóðernisfjelagsskap landa vorra vestra.

Með þetta fyrir augum finnst oss ekki of djúpt tekið í árinni að segja, að þjóð vorri sje skylt að sýna kirkjufjel· vestra viðurkenning og sóma með því að styrkja það á einhvern tilhlýðilegan hátt.

Spurningin verður sú: á hvern hátt getum vjer hjeðan af landi bezt styrkt kirkjufjel. vestra?

Án efa með því, að hjálpa kirkjufjel. um verulegan fjárstyrk til þess að koma upp hinum ísl. menntaskóla (College), sem það er að berjast fyrir að koma á fót. það er ekkert málefni, sem eins varðar framtíð kirkjufjel. vestra, framtíð ísl. þjóðernisfjelags, skapar ísl. tungu og bókmenntir þar í landinu, eins og þetta skólamál. Ís.l· menntaskóli yrði undirstöðusteinn þessa alls; hann yrði það vígi, er bezt mundi tryggja tilveru kirkjufjel. og kristindómsboðskaparins meðal V. Ísl., eins og líka ísl. tungu, þjóðernistilfinningar og bókmennta þar vestra; en án skólans getur allt þetta verið í hættu, hve nær sem vera skal.

þetta sjá hinir beztu og vitrustu meðal V.-Ísl. glögglega. og þetta er kirkjufjel. ljóst, og því hefur það tekið skólamálið upp á prógramm sitt og skoðar það sem sitt mesta og fremsta nauðsynjamál; það er því hið mesta lífsspursmál að fá upp skólann, og því ætti hjálp vor einmitt að koma þar niður.

Samkvæmt þessari tillögu vorri leyfum vjer oss nú að skora fyrst og fremst á kirkjunnar menn (prestastjettina) hjer á landi og jafnframt á alla landsmenn, að þeir styrki hið lút. kirkjufjel. Ísl. í V.h. með fjegjöfum, til þess að koma á fót hinum ísl. skóla (College), sem kirkjufjel. hefur tekizt á hendur að stofna.

Um leið og vjer sendum boðsbrjef til slíkra samskota út um land með Kbl. þessu, biðjum vjer lesendur Kbl. að hlynna að fyrirtæki þessu sem bezt og endursenda listana og væntanleg samskot dómkirkjupresti síra Jóhanni í Reykjavík.— Skilagrein fyrir móttöku og afhending fjárins skal verða gjörð bæði í Kbl. og Sam.

Loks þökkum vjer bróður vorum V. B. fyrir bending hans, ekki af því, að vjer ekki hefðum augastað á þeirri *skyldu* kirkju og þjóðar að styrkja kirkjufjel. Ísl. í V.h. í þess virðingarverðu baráttu fyrir evangeliskum kristindómsboðskap meðal landa vorra vestra, eða sæjum ekki *þörfina* á slíku liðsinni,—því þessi atriði höfðum vjer rætt vor á meðal áður en vjer fengum hina bróðurlegu bending frá V. B.—, heldur af því, að bendingin hefur orðið oss tilefni til að koma nú þegar fram með ákveðna tillögu í máli þessu.

Ritað í febrúar 1892.

Jens Pálsson. Jóhann þorkelsson. O. V. Gíslason.

Ritstjóri Kirkjublaðsins síra þórhallur Bjarnarson er mjög meðmæltur þessari tillögu um að farið sje að safna fje þar heima til hinnar fyrirhuguðu skólastofnunar kirkjufjelagsins. þó hann játi fúslega, hve fagurt og jafnvel þýðingarmikið það væri fyrir hina ísl. þjóðkirkju, að taka þátt í hinni stórkostlegu kristniboðsstarfsemi, sem nú er rekin með svo miklu afli og fjöri af öllum kristnum þjóðum heimsins, að til slíks eru engin dæmi í sögunni, álítur hann þó, að það liggi miklu nær fyrir þjóð vora þar heima, að styrkja trúarbræður sína hjer í dreifingunni. Honum finnst varhugavert, að hafa tvö járn í eldinum og er augsýnilega hræddur um að annaðhvort brenni. „Hafi jeg“, segir hann, „milli handa að eins einn pening, sem eigi tekur að skipta, þá læt jeg hann heldur til skólans að sinni“.

Vjer erum bræðrum vorum heima hjartanlega þakklátir fyrir öll þessi hlýlegu og bróðurlegu viðurkenningarinnar orð, er þeir hafa talað í vorn garð. Málefnisins vegna, sem vjer erum að berjast fyrir undir fremur erviðum kringumstæðum, eru þau oss og öllum, sem elska kristindóminn meðal vor, til hinnar mestu gleði. það út af fyrir sig, að

kristindómsbarátta og viðleitni í öllum velferðarmálum vorum hjer til eflingar er virt og metin af beztu og vitrustu mönnunum heima á fósturjörð vorri, er oss hinn mesti og bezti styrkur. Hjer er einlægt verið að rógbera oss af andstæðingum vorum; orðum vorum er ranghverft og athafnir vorar níddar. Við því athæfi þegjum vjer. Það og þeir, sem að því standa, er of fyrirlitlegt, til þess nokkrum orðum sje út af því eyðandi. En vjer erum að leitast við að láta allt starf vort vera fullnægjandi svar. En þá er oss auðvitað um að gjöra, að það svar sje skilið. Sá skilningur hefur komið ljóslega fram í grein þeirri, sem vjer erum hjer um að ræða. Í einstöku atriðum er oss víst borin of vel sagan. Vjer getum því nærri, hvernig sumir ónefndir menn hjer vestra muni bera sig yfir þessu lofi í vorn garð og út af tillögu þessari um fjárstyrk að heiman til skólans. Það verður víst aumur harmagrátur, sem þeir reka upp. Það má búast við þeir grípi til síns vanalega óyndisúrræðis, að afskræma þá menn heima, sem helztir eru hvatamenn að þessu, og gjöra lítið úr þeim á allar lundir. Það hefur þegar verið gjörð álitleg byrjun í þá átt, hvað eptir annað í vetur, og er það þó sjálfsagt að eins „forspil". En það er jafn-nauðsynlegt að ávinna sjer sumra manna last eins og það er dýrmætt að eignast verðskuldað hrós annarra manna.

Vjer höfum aldrei gjört oss neina von um fjárstyrk að heiman. Hinn eini styrkur, sem vjer höfum vonazt eptir, var í því fólginn, að hingað kæmu hæfir menn að heiman með guðfræðislegri menntun til að gjörast prestar hinna mörgu prestlausu safnaða vorra. Sú von hefur nú að mestu brugðizt. Drottinn hefur eflaust ætlazt til þess, að vjer fengjum prestaefni vor úr annarri átt. Enda erum vjer nú á góðum vegi í því tilliti, þótt biðin sje löng og skaðinn, sem sú bið veldur, sje mikill. En hinn siðferðislegi styrkur, sem hluttaka góðra og málsmetandi manna á fósturjörð vorri í öllum vorum andlegu málum gefur oss, er ómetanlega mikils virði. Hin góðu orð bræðra vorra einmitt nú á þessum tíma eru oss á við mörg hundruð dollara.

þegar svona er tekið í skólamál vort heima, fær það eflaust margfalt betri byr meðal margra hjer.

## HIN KIRKJULEGA BARÁTTA VOR.

Eins og þegar hefur auglýst verið, verður, ef guð lofar, hið næsta kirkjuþing vort sett á Jónsmessu, 24. þ. m. það verður hið *áttunda* kirkjuþing, er vjer höldum. Fyrsta kirkjuþingið var haldið í Winnipeg árið 1885. Hið *annað* var haldið að Garðar árið eptir. Nú eptir 6 ár verður það aptur haldið í Garðar-söfnuði.

þau sjö ár, sem kirkjufjelag vort hefur lifað, hafa verið sannkölluð reynslu-ár. Hvervetna á kirkjan í stríði og baráttu, það er satt. Sá, sem stýrir örlögum hennar, vill svo vera láta. En það er sannfœring vor, að vart muni unnt að benda á nokkurt kirkjufjelag, sem átt hefur í tiltölulega jafn-erviðu stríði og þetta fámenna kirkjufjelag Íslendinga hjer vestan hafsins. Vjer tökum ekki þetta fram til að barma oss. því vjer þökkum drottni fyrir þetta atriði,—þökkum honum, að hann hefur sent oss út í það. Vjer tökum það heldur ekki fram vegna þess, að vjer finnum nokkra ástæðu til að örvænta um framtíðina, því vjer vitum, að drottinn er með oss og gefur oss uppreisn á sínum tíma. En vjer bendum á það sem annan sögulegan sannleika. Gegn þeirri andlegu lífshreyfing, sem kirkjufjelagið gjörðist fulltrúi fyrir, hafa risið nálega öll þau andvígu öfl, sem þjóðlíf vort á til í eigu sinni. Ef þeir, sem kirkjufjelagið stofnuðu í fyrstu, hefðu sjeð fyrir fram allt það stríð, sem það hefur orðið að eiga í, alla þá ytri og innri erviðleika, er lágu á leið þess, allar þær hatursofsóknir, sem látnar hafa verið yfir það dynja, hefði það í sannleika ekki verið nema mannlegt, þótt hugur þeirra hefði guggnað og þá brostið kjark til að leggja út á þessa baráttunnar leið. Víst er um það, engum þeirra kom til hugar, hvílíka baráttu það mundi kosta, að halda uppi málefni kristindómsins meðal fólks vors hjer. það sjest á þessu, eins og annars hvervetna, að það er vizku drottins og náð

að þakka, að vjer göngum blindandi móti örlögum vorum og vitum ekki áður en líður, hvað á daga vora drífur.

En þegar betur er að gáð, sjáum vjer og skiljum, að þetta stríð og þessi látlausa barátta fyrir tilveru kristindómsins meðal vor hefur verið og mun framvegis verða oss til mestu blessunar í kirkjulegu tilliti. Það hefur gjört trú vora sterkari og traust vort á drottni óbilugra. Það hefur kennt oss svo áþreifanlega þann sannleika, að enginn mannlegur dugur sigrar í baráttunni gegn hinu illa, heldur að eins kraptur drottins, sem máttugastur er þar sem veikleikinn er mestur. Birta ljóssins virðist vera mest, þegar algjört myrkur er umhverfis. Í mannlífinu birtist máttur drottins á dýrðlegastan hátt, þegar allan annan krapt þrýtur. Kraptur vorrar kristilegu trúar birtist aldrei á jafn-dýrðlegan hátt og hjá hinum deyjandi manni, þegar allur mannlegur kraptur er gjörsamlega þrotinn, og hann stendur samt sigri hrósandi gagnvart hinum óttalegasta óvini mannlegrar tilveru — dauðanum. Sjálfur hefur hann þá algjörlega gefizt upp; drottinn er orðinn honum allt.—Opt teljum vjer oss raunatölur yfir því, hve bágt það sje að tilheyra lítilli þjóð, sem ekki fær tekið nema svo lítinn og afllausan þátt í hinum almennu starfsmálum mannanna. Það er þó engan veginn vort mesta mein. Opt teljum vjer oss líka raunatölur yfir því, að hjer í þessu landi sjeum vjer svo fámennir og fátækir, að vjer fáum engu til leiðar komið; og í hinni kirkjulegu starfsemi vorri vill hugur sumra vor stundum guggna, vegna þess, að þeim finnst, að erviðleikarnir vera kröptum vorum ofvaxnir og vjer hljótum þess vegna að lúta í lægra haldi. Já, vissulega eru þeir kröptum vorum ofvaxnir.. En þeir eru vissulega ekki kröptum hins almáttuga ofvaxnir. Og honum einum treystum vjer, ekki sjálfum oss. Enginn maður vinnur af sjálfsdáðum sigur í baráttunni við hið illa. Það er kröptum hans algjörlega ofvaxið. Ekkert kirkjufjelag, hversu öflugt sem það kann að vera, ber sigur úr býtum í baráttunni gegn hinum antikristilegu öflum, er á móti því ráðast, fyrir eigin rammleik, heldur að eins fyrir fulltingi drottins. Þótt hið íslenzka kirkjufjelag vort hjer sje, ef til vill, allra

kirkjufjelaga minnst og vanmáttugast, þurfum vjer öldungis ekki að æðrast vegna þess, því sá drottinn, sem vjer trúum á, elskar einmitt hið vanmáttuga og umkomulausa og opinberar helzt sína dýrð í mannlegri fátækt. Á honum er allt vort traust. Fyrir hans fulltingi höfum vjer von um sigur í voru kirkjulega stríði, því málefnið er hans. Hatursmenn vora vitum vjer hann lætur sjer til minnkunar verða, af því það er sannleikurinn sjálfur, sem þeir hata og ofsækja. Hið illa bítur ætíð í sinn eigin hala og verður sjálfu sjer að síðustu að bana. þegar drottinn er með oss, hver er þá á móti oss?

Nú á þessum síðustu tímum hefur lygin verið að leita í afkimum sínum og leynikrókum eptir eiturörvum til að skjóta gegn kirkjufjelagi voru og starfsmönnum þess. Með varmennskunnar hugrekki hefir um næst undanfarinn tíma ótt og títt verið vegið að foringja vors kristna fólks liggjandi dauðveikum. Hið lakasta, sem voru íslenzka þjóðerni hefur verið unnt að framleiða, hefur birzt í hinni afskræmislegustu mynd sinni til að hrækja í auglit einhverjum hinum bezta manni, sem þjóð vor á nú til í eigu sinni, þar sem hann fær enga vörn sjer veitt. það er raunalegt að sjá og átakanlegt á að horfa. En hið illa fær hegning sína og hið góða sín dýrðlegu laun. þegar hið illa hefur gjörsamlega fengið yfirhönd yfir einhverjum og algjörlega fengið hann á vald sitt, er leiðin ætíð óskeikanleg sú sama: ofan fyrir björgin, og niður á hafsins botn. það var þetta, sem frelsari vor sýndi þeim Gadaramönnum svo átakanlega, þegar hin óhreinu dýr, er hinir illu andar höfðu fengið á sitt vald, steyptust fram af björgunum.—þess vegna höfum vjer ekkert að óttast. þetta hatursins ofsóknaræði fær ekki unnið oss hið allra minnsta mein. þegar drottinn er með oss, hver er þá á móti oss? Hann hefur eflaust leitt oss út í þetta, til þess dýrð hans mætti á oss opinber verða.

Vjer göngum því einu feti lengra og segjum: Einmitt fyrir þessa baráttu og þessar ofsóknir eigum vjer að vera glaðir og drottni vorum þakklátir. Vjer viljum vera fúsir til sóknar og varnar í hvívetna. En gagnvart þessum og

þvílíkum ofsknum eyðum vjer engum orðum, heldur látum líf vort og daglega framkomu vora veita bæði vörn og sókn af vorri hendi „í heiðri og vanheiðri, hvort sem vel er talað um oss eða illa“. Fyrir guðs nafns sakir erum vjer rógbornir og svívirtir. Fyrir guðs nafns sakir verður hinn kirkjulegi fjelagsskapur vor fyrir ofsóknum. Fyrir guðs nafns sakir erum vjer, hinir kirkjulegu starfsmenn, smánaðir, um leið og leitazt er við að gjöra nafn vort að athlægi. En einmitt það að vera atyrtur og smánaður, svívirtur fyrir guðs nafns sakir, er hið kostulegasta hlutskipti kristins manns. Það skulum vjer álíta vorn mesta heiður og dýrmætustu laun. Hve sælir værum vjer, ef lýsing Páls postula gæti átt heima um oss: Vjer álítumst svikarar, en finnumst þó sannorðir; erum lítilsvirtir, en þó nafnkunnugir; erum nærri dauða, en sjá, vjer lifum samt; erum hryggvir, en þó jafnan glaðir; fátækir, en auðgum þó marga; eigum ekkert, en höfum þó allt“.

Öll þessi mótspyrna ætti að verða til þess að styrkja trú vora og koma oss í nánara og innilegra samfjelag við drottin vorn. Hún ætti að kenna oss að ákalla frelsara vorn nótt og dag, svo öll hin kirkjulega barátta vor mætti verða í hans anda og að hans dæmi. Þá falla öll eiturskeyti óvina vorra afllaus niður við fætur vora. Og þó erum vjer ætíð öruggir, hvernig sem allt gengur, því ef drottinn er með oss, hver er þá á móti oss?

Hin þyngsta reynsla, sem drottinn hefur sent í vorn garð, eru hin löngu og þungu veikindi þess manns, sem veitt hefur hinum kirkjulegu fjelagsmálum vorum svo ágæta forstöðu öll þessi 7 ár, er kirkjufjelagið hefur verið til. Þegar hið 8. kirkjuþing vort kemur nú saman, verður hans fjarvera og áframhaldandi veikindi vort mesta hryggðarefni. Kraptarnir voru svo veikir fyrir, — að eins fjórir prestar. Einkis þeirra mátti missa við,—hans sízt af öllu. Það, sem af er þessu ári, höfum vjer ekkert fengið að njóta hans. Sárþjáður hefur hann einlægt legið, svo að segja fyrir dauðans dyrum. Vjer höfum aldrei algjörlega misst vonina um, að drottinn mundi reisa hann til lífsins aptur og gefa oss hann með fullu fjöri að nýju

út í baráttuna. Sú von vor hefur styrkzt við sýnilegan bata hans nú upp á síðkastið. En vjer megum ekki hætta að biðja drottin fyrir honum, heldur ákalla hann stöðugt, svo hann líti til vor í náð sinni. Með þessu mótlæti er hann einmitt að reyna trú vora og kalla allt vort trúaða kirkjufólk til nýrrar iðrunar og yfirbótar. Einnig í þessu tilfelli mun hann sýna sig dýrðlegan í vanmættinum og láta hjálpina, sem hann sendir, á sínum tíma verða yfirgnæfandi, af því neyð vor var svo mikil.

Með þessum hugleiðingum göngum vjer á kirkjuþing. Þótt dimmt sje í kringum oss, segjum vjer: Áfram í drottins nafni! Hann lætur oss engan veginn til minnkunar verða, heldur leiðir oss með styrkum armlegg gegnum allar hættur og torfærur og lætur oss bera sigur úr býtum að síðustu.

---

Lexíur fyrir sunnudagsskólann, þriðji ársfjórðungur 1892.

6. lexía, sd. 7. ág.: Traust lærisveinanna á guði (Pg. 4, 19-31).
7. lexía, sd. 14. ág.: Ananías og Safira (Pg. 5, 1-11).
8. lexía, sd. 21. ág.: Postularnir ofsóktir (Pg. 5, 25-41).
9. lexía, sd. 28. ág.: Hinn fyrsti kristni píslarvottur (Pg. 7, 54-60).

---

## TIL SKÓLANS:

Mat. Einarsson $1.oo, Gísli Gislason $1.oo, Ólafur Þorsteinsson $5.oo Lárus Guðmundsson 75 cts., Jóh. Magnússon 25 c., Guðm. Jónsson 25 cts., Bjarni Árnason $1.oo, Björn F. Jósafatsson $1.00, allir í Pembina. Mrs. H. Á Jackson í Grafton $1.00, samskot í Grafton við guðsþjónustu á uppstigningardag $4.20. — Guðmundur Jóhannesson, Mountain, $10.oo, Ólafur Ólafsson, s. st., $5.oo.

---



---

„SAMEININGIN" kemr út mánaðarlega, 12 nr. á ári. Verð í Vestrheimi: $1.00 árg.; greiðist fyrir fram. — Skrifstofa blaðsins: 704 Fifth Ave. N., Winnipeg, Manitoba, Canada.—Útgáfunefnd: Jón Bjarnason (ritstj.), Páll S. Bardal, Friðrik J. Bergmann, Hafsteinn Pétrsson, Sigurðr Kristofersson, H. Hermann, Jóh. Briem.

PRENTSMIÐJA LÖGBERGS — WINNIPEG.